# RÆÐUR,

fluttar við útför

# Pjeturs Guðmundssonar,

bónda á Engey,

og

# Ólafar Snorradóttur,

konu hans.




Gefnar út

að tilhlutun og á kostnað erfingjanna.

---

Reykjavík.
Prentaðar í prentsmiðju Íslands hjá E. Þórðarsyni
1854.

# I.

# RÆÐUR,

fluttar við jarðarför

# Pjeturs Guðmundssonar

28. d. októbermánaðar 1852.





# 1. Húskveðja,

flutt af

herra biskupi **H. G. Thordersen,**
ridd. af dbr. og dannebrogsm.

---

Náð og friður af guði vorum föður sje með öllum hjer nálægum, sem elska drottin vorn Jesúm Krist.

Hvílíkur atburður hjer hafi orðið, þarf eg engum að segja; það sannaðist hjer, sem ritningin segir: „Áður en kvöldið kemur, getur hafa breytzt frá því, sem var um morguninn, og allt þetta skeður með skyndi fyrir guði“. Já, vjer getum næstum ei annað, en tekið upp aptur þessi orð: „Það skeði með skyndi fyrir guði“. Á þetta þarf eg ekki að minnast; allir sjá, að vjer nú erum staddir í sorgarhúsi, og allir vita tilefni sorgar vorrar; því hjer liggur lík sá maður, sem ekki einungis var fyrirmaður þeirra, sem búa á ey þessari, og faðir mikils afsprengis og ágætra niðja, bæði sona og dætra, sem víða hafa út dreifzt, og þó mörg búa hjer enn eptir hann, heldur var hann að mörgu ágætur og vinsæll

meðal vor; allan sinn aldur hafði hann alið í þessari sveit, og, þótt hann yrði ei háaldraður maður, eru þeir þó orðnir fáir hjer eptir, sem muni til hans, er hann var á æskuárum. Eg mun vera einn meðal hinna fáu, sem þekkti hann ungan, sem þekkti nákvæmlega bæði hans foreldra og konu hans sálugu, og þar að auki alla hina heldri menn, sem þá voru uppi í þessari sveit, og gátu sjer góðan orðstír; þess vegna er eg hjer kominn, og get ei orða bundizt, er eg í endurminningarinnar skuggsjá lít til fornu tímanna, og þeirra ágætismanna, er eg þá þekkti, er eg hugsa til æsku minnar og þeirra manna, er eg þá kynntist við; allur fjöldinn þeirra er mjer horfinn, en nú er eg hingað kominn, til að kveðja þann, sem seinastur er hjer skilinn við æskuvina minna. Að vísu er ekki sá ásetningur minn, að lýsa æfi hins sæla framliðna; það ætla eg öðrum; þó má eg segja það, sem eg fyrir aldurssakir man betur en aðrir, að á hans dögum var sá enginn æskumaður á þessu nesi í bændastjett, er talinn væri hans jafningi að dugnaði til lands eður sjávar, og var það þó enn meira í varið, að ei var síður tekið til kurteysi, siðsemi og manngæzku hans, og er mjer enn í æskuminni, að aldrei heyrði eg nokkurn mann annað mæla, enda sýndi þetta sig í því, er hann hlaut þann kvennkost, sem eg óhræddur fullyrði að þá var beztur hjer í sveit, og þó

lengra væri leitað, og er þaðan kominn mikill og fagur ættleggur, sem nú með Davíð getur sagt: „Faðir minn og móðir mín yfirgáfu mig, en þú drottinn ert með mjer“. Já, svo hverfa burtu vinir vorir í þessum heimi, og þó stöndum vjer aldrei vinalausir, svo lengi sem vjer höldum tryggð við þann himneska vininn, sem elskar sína allt til endans, hann, sem sagði: „Sælir eru harmþrungnir, því þeir munu huggaðir verða“, og: „Allt verður að hneigjast þeim til góðs, sem guð elska“. Þið, ræktarsöm börn hins framliðna, hafið nú sorg; sú sorg er eptir guði, því þið áttuð góðan föður, sem ykkur bar í hjarta sínu, og lagði allt sitt fram ykkur til menningar; þetta hafið þið öll viðurkennt, og þess vegna sýnt honum staðfasta elsku og virðingu, meðan hann var hjá yður, og með því vottað, að þið voruð góð börn góðra foreldra; það er því náttúrlegt, að þið syrgið, og eg lofa guð fyrir það, að þið syrgið; drottinn veit eg tala ekki svo, af því eg vilji eður megi mein ykkar vita, heldur af því eg veit þessi ykkar sorg er guði þóknanleg, og að hún fyr eður seinna mun bera ykkur ávexti fyrir hið eilífa lífið, af því eg veit, að þau tár, sem þið fellið, eru angurlaus, eru ræktarsöm ástartár, þau tárin, sem guð mun af þerra. Móðirin hefur fyrir löngu kvatt, sú hin góða móðirin; nú kveður ykkur faðirinn, og þið segið einnig um hann,

að hann var góður faðir, og sá himneski faðirinn var svo góður honum og ykkur, að þið öll komuzt til góðrar menningar, áður hann deyði. Guð hefur svo tilsett, að börnin mega sjá á bak foreldrum sínum, en þeir deyja sælir, þegar börnin blessa þeirra minningu, og geyma hana í þakklátum hjörtum. Hjer skiljast vegir; faðir og börn kveðjast innbyrðis miklum kærleika; guð taki hinn framliðna til sinnar dýrðar, og sleppi aldrei sinni föðurhönd af niðjum hans.

Lengi hafði hinn framliðni búið á þessari eyju, og margir höfðu honum þjónað fyr og seinna, og ætíð var hann af öllum elskaður, sökum síns einstaka velvilja, góðgirni og jafnlyndis í allri umgengni og viðskiptum; allir þessir sakna nú þess manns, sem svo vel og lengi hafði ráðið hjer fyrir; virðingarfullur tregi fylgir líki hans, er það verður flutt hjeðan, og eyjan sjálf grætur burtför þessa síns kæra sonar; þó ber oss að hlýða guðs boði, og flytja hann í reit hans barna, en vjer munum ljetta trega vorum með því, að fylgjast með, og sjá, hvar og hvernig hann verður þar lagður.

Marga vini átti hinn sæli framliðni meðal vor, hann, sem ætíð var góðgjarn, bliður, glaður og gestrisinn, sem hvern, er til hans kom, vildi láta glaðan frá sjer fara, hvort sem hann átti að sjer meira eður minna. Vjer hittum hann opt, eður komum til hans, og var ætíð

eins á hann að hitta, og má þetta ei nú vera oss minnistætt, er vjer sjáum hann lík, og það svo hastarlega, eptir að vjer nýlega höfðum sjeð hann með venjulegu fjöri og glaðlyndi? Ó, látum oss þetta til hjarta ganga, og gleymum ekki, hversu það er skeð í skyndi fyrir guði, svo að það kom fram að kvöldi, er engan gat grunað að morgni. Nú sjáum vjer hann lík, þennan glaðværa og ástsæla vin allra vor, sem eins var lagaður til að gleðja volduga sem vesæla, sem var jafnan velmetinn af æðri sem lægri, sem, fyrir sakir hjartagæzku sinnar, mannúðleika og prúðmennsku, var allt til dauðadags einhver vinsælastur maður vor á meðal. Allir, sem þekktu hann, eður höfðu átt viðskipti við hann, sakna hans nú; því ei hafði hann einungis verið öllum góður og hugljúfur, heldur hafði og margur maður honum mikið að þakka, einkum þeir, sem í bágindum voru staddir, og leituðu hans í neyð sinni, og var honum þá eiginlegt, að ráðfæra sig fyr við hjartalag sitt en efni, og þó blessaði guð hann ætíð, svo hann hafði nóg fyrir sig og sína.

Hann var sóknarmaður minn um tíma, og get eg því með sanni borið honum, að hann elskaði og virti guðsorð, hans hús og góða siði, og mjer var hann æ í orði og verki meðal hinna elskulegustu, einn meðal fleiri bræðra, sem æfinlega munu verða mjer í minni fyrir

sakir manndáða og gæzku, bæði við mig og aðra. Það gleður mig, að mjer hefur nú gefizt færi á, að segja þetta opinberlega, svo að hjartalag mitt til hins sáluga vinar megi verða augljóst; en það gleður mig þó mest, að allir nálægir, að allir, sem nokkuð þekktu hann, munu samsinna mjer, og heiðra hann og útför hans með einlægum söknuði, og með þessum hætti verður mjer þessi stund hátíðleg; því eg álít engan sóma meiri en þann, að gráta með grátendum, í sameiginlegum kærleika að fella tár við líkkistu eður gröf, sem geymir æruverðar leifar góðs og sannkristins manns.

Eg varast að vera langorður, þótt efnið sje nóg; því hvort sem eg færi hjer um fleiri eður færri orðum gæti þó ekki niðurstaðan orðið önnur en sú, að sá, sem hjer liggur lík, var uppbyggilegur og góður maður.

Vertu þá sæll, þú vinur minnar æsku, sem aldrei sleizt trúfesti þína við mig allt til dauðadags? Vertu sæll, sem alla vildir sæla vita, sem hvervetna vildir koma fram til góðs, engum gjörðir mein, en vildir gleðja hryggan, og endurnæra fátækan bróður, klæða nakinn, metta hungraðan, svala þyrstum, hjálpa nauðstöddum. Vertu sæll, meðbróðir þessa safnaðar, þú, sem gladdist, þegar sagt var til þín: „Vjer skulum ganga í hús drottins“, þú, sem svo opt sazt á bekkjum hinna trúuðu, elskaðir guð og hans

orð. Vertu sæll, þú blíði mannvinurinn, sem af góðum sjóð þíns hjarta fram barst gott, vildir öllum vel, og aldrei vissir, hvað hatur var; þú, sem með dugnaði stundaðir ekki einungis þitt eigið, heldur einnig annara, þó án allrar fordyldar, og án þess að hefja þig yfir aðra með því, að gjöra lítið úr bræðrum þínum. Vertu sæll, þú starfsami og trúi fjelagsþegn, sem vannst í sveita þíns andlitis, og kenndir mörgum og efnilegum börnum slíkt hið sama, svo þau hafa glatt þig í elli þinni, og munu nú, að þjer liðnum, við halda minningu þinni í góðum heiðri. Vertu sæll, og góður guð gleðji þig eilíflega; hann leiði þig inn í sitt dýrðarríki, og gefi þjer æfinlega samastað hjá þínum áður burtsofnaða reynda og dyggðaríka ektamaka; hann gefi þjer æfinlega að gleðjast í sælla anda samfjelagi.

Vjer skulum því ekki syrgja eins og þeir, sem enga von hafa; við ljósbirtu hinnar eilífu dýrðar hverfur myrkvi þessara tíma. Þið ræktarsöm börn hins framliðna, beygið ykkur undir guðs volduga hönd, og viðurkennið, að þessi hin volduga höndin er einnig gæzkurík. Sá atburður, sem skeði við fráfall ykkar elskaða föður, var í fyrstu mjög voveiflegur og hryggilegur, en nú sjáið þið, hversu hinn líknsami hefur haft meðaumkun með ykkur, börnum sínum, og með ýmsum hætti dásamlega og ógleymanlega dregið úr þeim hörmum, sem í

fyrstu sýndust fyrir liggja. Hefjið því í sorginni augun til himins, og ykkar tár sjeu ei síður þakklætis- en sorgar-tár, og þakkið guði, að hann hefur gegnum sorgarinnar ský látið skína yfir ykkur sól sinnar náðar og miskunar, svo að þið sæjuð og þekktuð hann, sem ykkur hefur þannig grætt, ekki einungis sem voldugur drottinn, heldur líka sem miskunsamur faðir. Það er leyndardómur trúar vorrar, að guðs náð er ei minni, en hans máttur.

Ó, svo huggizt, góðu börn, og gleymið aldrei því, að eins og faðirinn er líknsamur, svo er drottinn miskunsamur öllum þeim, sem hann óttast. Trúið ætíð á hann, treystið honum, elskið hann, þá mun hann miskuna yður. Guð blessi yður öll, lífs og liðin.

Gangið svo nær, þjer, sem þar til eruð kvaddir, eg hef ei meir að segja, og flytjið burtu þessa kistu, þetta hið síðasta legurúm dáins og heiðraðs ástvinar. Vjer fylgjum með helgum og alvarlegum söknuði. Guð blessi hús og heimili, þá, sem eptir eru og eptir lifa; hann blessi vora göngu til kirkju og grafar; hann blessi um fram allt þann framliðna, sem vjer nú allir með heitri hjartans bæn felum hans eilífu föðurmiskun á hendur, fyrir drottin vorn Jesúm Krist, hinn eilífa meðalgangarann milli guðs og manna, sem af öllum oss sje æfinlega lofaður af hjarta og munni. Amen.

---

# 2. Líkræða,

flutt af

herra dómkirkjupresti, sjera **Á. Johnsen.**

---

Það ber ekki sjaldan við í manna lífi, að þeir atburðir bera að höndum, sem oss finnst vjer eigum bágt með að skilja, sem oss langar til að hefðu farið öðruvísi. Einn slíkur atburður er það, sem í þetta skipti hefur kallað oss hjer saman í guðshús, til að veita þessum vora andaða ástvin hina síðustu þjónustu. En þó vjer ekki skiljum, hvers vegna drottni hafi þóknazt, að kalla hann hjeðan svo óvænt, þá vitum vjer samt, að allt, hvað guð gjörir, er gott, og að svo miklu hærri sem himininn er jörðunni, eins miklu hærri eru guðs vegir, heldur en vorir vegir, en þó ætíð speki og náð; og þó oss hafi langað til, að þetta hefði farið öðruvísi, mundi það samt hafa verið betra? mundi þann alvísa hafa vantað ráð, þann alvalda mátt, til að láta þetta ekki ske, ef hann hefði sjeð það betur henta? Vantaði hann þá mátt, vantaði hann þá ráð, til að hrífa líf þess ungmennis úr dauðans kverkum, sem ásamt vorum framliðna var stadd-

ur í sömu hættu, og sem hjer, ásamt foreldrum og vandamönnum, lofar guðs gæzku fyrir hans dásamlegu hjálp og hlíf, af heilum hug biður guð, að hjálpa sjer, að helga honum allt sitt líf, sem svo bersýnilega gaf honum hjer lífið í annað sinn; og var það þá ekki líka sem drottinn með því, sem hjer er skeð, rjett eptirtakanlega hafi viljað setja oss fyrir sjónir, að hann sje herra lífsins og dauðans? Vitum vjer ekki líka, að ekki einn smáfugl dettur til jarðar án guðs vilja? Höfum vjer ekki opt áður sjeð þess áþreifanleg dæmi, er skáldið forðum sagði:

„Menn vaða í villu og svíma;
veit enginn neitt um það,
hvernig, á hverjum tíma,
eða hvar hann kemur að.
Einn vegur öllum greiðir
inngang í heimsins rann;
margbreyttar lízt mjer leiðir
liggi þó út þaðan“;

og ættum vjer þá ekki að þegja, og vorum munni ekki að upp ljúka, af því drottinn hefur þetta gjört? ættum vjer ekki að temja vorar óskir, og í auðmýkt að leggja oss undir guðs voldugu hönd, sem ræður yfir lífi og dauða, einn veit, hvað sjerhverjum og öllum yfir höfuð er fyrir beztu? já, ættum vjer ekki að lofa guð fyrir það, að þó honum þóknaðist, svo óvart að gjöra enda á vors framliðna heiðurs-

verða og uppbyggilega lífi, þá veitti hann samt börnum hans, vinum og vandamönnum þá gleði, að fá að búa lík þeirra andaða ástvinar til moldar, að fylgja því til þess síðasta hvíldarstaðar í helgum reit, eins og þeirra ræktarfullu sálir svo mjög langaði til? Ættum vjer ekki að lofa guð fyrir það, að hann samt leyfði oss, að veita honum hina síðustu þjónustu, sem vjer að vísu gjörum með sorg og söknuði, en sem vjer samt svo mjög eptir æsktum, fyrst það var vilji guðs, að hann svo brátt skyldi yfirgefa vorar sambúðir, sem hann svo lengi hafði verið, og ávallt var, til prýðis og uppbyggingar.

En áður vjer flytjum hans jarðnesku leifar þangað, hvar þeim er búinn staður í helgum reit, þá látum oss fyrst stuttlega fara huga yfir hans fagra og uppbyggilega líf.

Vor framliðni, **Pjetur** sálugi **Guðmundsson**, var fæddur í Örfarsey 7. ókt. 1786. Foreldrar hans voru þau miklu merkishjón, lögrjettumaður Guðmundur Jónsson og Guðríður Ottadóttir, sem þá bjuggu hjer. Hjá þessum foreldrum sínum upp ólst vor framliðni fyrst í Örfarsey, og svo í Skildinganesi, þar til hann 4. des. 1807 giptist sinni elskuðu konu, Ólöfu Snorradóttur. Byrjuðu þau þá búskap í Skildinganesi vorið eptir, og þar bjuggu þau, þar til þau vorið 1823 fluttust út í Engey, hvar þau síðan bjuggu, þar til þessi hans elskaða

kona, eptir langvarandi sjúkdómskröm, andaðist veturinn 1844, og hann nú fyrir liðugum mánuði síðan hjer við skildi; bjó hann að henni andaðri og til dauðadags með yngstu dóttur sinni. Hjónaband vors framliðna blessaði guð 11 afkvæmum, hvar af 7 eru lífs, og öll gipt, nema þessi eina dóttir hans, sem aldrei skildi við hann, fyr en hann nú með dauðanum frá henni flutti til átthaga betri.

Þetta er þá hið helzta, sem mjer er kunnugt af æfi vors framliðna; er þar af auðsjeð, að líf hans, eins og allra annara, var blandað gleði og sorg; þá gleði fjekk hann að reyna, að guð gaf honum góða foreldra, góða konu, efnileg börn, góða heilsu, nægilega atvinnu; þá sorg hafði hann þar á mót, að hann varð lengi að horfa upp á þungt heilsuleysi sinnar elskuðu konu, að hann varð að sjá á bak 4 afkvæma sinna, og loksins henni, sem með honum hafði borið dagsins hita og þunga, auk margvíslegs annars andstreymis, sem lífi sjerhvers manns er óaðskiljanlega samfara. En þegar lífið er liðið, er það minnst vert, hver kjör þess hafa verið; hitt er meira vert, hvernig hver einn hefur staðið í sínum sporum, hvernig lífinu hefur verið varið; og þori eg þá að vitna til allra þeirra, sem hann rjett þekktu, að þeir munu færri, sem hafa varið lífinu betur en hann. Því, að eg fyrst minnist á það, hver er sá, er ekki viti,

að vor framliðni var guðhræddur maður, að það var hans yndi, að hafa guðsorð um hönd, að vitja þess hússins, hvar guð hefur sett minningu síns nafns; og eg vil því heldur geta þessa, sem þetta nú á dögum sýnist sjaldgæfara en skyldi, en guðhræðslan er þó sú rót, frá hverri allt gott hefur sín upptök, eins og hún líka er til allra hluta nytsamleg. Jeg veit að vísu, að þetta einkenni er ekki óbrigðult, þar eð þeir eru til, sem hafa skyn guðhræðslunnar, en afneita hennar krapti; jeg veit, að ekki allir, sem segja: „Herra, herra“, munu inn ganga í guðsríki. En ef nokkur skyldi vera sá, er vildi segja þetta við þessar líkbörur, þá svara jeg honum hugglaður með þessum drottins orðum: „Af þeirra ávöxtum skuluð þjer þekkja þá“; og það eru sannarlega ekki vondir ávextir, sem það líf hefur borið, sem hjer er til lykta leitt. Hinn framliðni var ráðvandur í allri sinni hegðun, öllum sínum viðskiptum, og jeg þori djarflega að vitna til allra þeirra, sem hann þekktu, og einhverju áttu við hann að skipta, um það, hvort hann hafi ásælzt nokkurn, eða gjört rángt til, heldur ávallt verið hinn rjettsýnasti og sanngjarnasti í öllum viðskiptum. Þar sem því miður margir flekka sig þeim syndum, sem jafnvel eru viðbjóður í manna augum, þá skal enginn fá því neitað um hann, sem hjer liggur lík, að hann hafi verið einhver hinn mesti

heiðurs- og sóma-maður, að hann hafi verið fögur fyrirmynd í allri siðprýði, svo samvizkusamur, að hann mátti ekkert vamm sitt vita. Þar sem þeir eru því miður of margir, sem ekkert er á að ætla, engin staðfesta er í, og stjórnlaust láta sig hrekja til og frá af sjerhverjum meininga-vindblæ, þá var hann ávallt sjálfum sjer líkur, hreinskilinn og einarður, tryggur og staðfastur, og hafði fulla einurð til, að segja djarflega meiningu sína, ef svo bar undir; því af því hugurinn var svo hreinn, hegðunin svo vönduð, þá gat hann ávallt gengið djarflega að öllu. Þar sem margir, eins og postulinn Páll um kvartar, lifa í óskikki vor á meðal, sem ekkert vinna, en gjöra óþarfa, þá má með sanni segja við þessar líkbörur, að hjer hvíli sá, sem stundaði sitt eigið, og vann með sínum eigin höndum, já, vann einnig þá, á þeim aldri, þegar kraptarnir optast eru vanir að vera farnir að dvína, höndin að þreytast; vann með afli og áhuga; því hann var allt til dauðadags hinn mesti fjör- og fylgis-maður, iðju- og erfiðis-maður, enda gaf guð honum líka góða heilsu, þvílíkt þol, að hann allt til dauðadags var svo hraustur og fjörmikill, svo ljettur og lipur á fæti, eins og menn á bezta skeiði; hefur efalaust stutt þar að, auk reglubundins lifnaðar, hans sífellda jafnaðargeð og staðfasta glaðsinni; því hver gat verið jafnlyndari en hann, fremur góðglaður og

skemmtinn, viðfelldnari í viðmóti og allri umgengni? Þar sem margir lifa eptir þeirra girndum, skeytingarlausir um þá, sem þeim ber að annast, þá skal það sagt um hann, sem hjer liggur lík, að hann var hinn ástríkasti, umhyggjusamasti maki, hygginn, ráðdeildarsamur dugnaðarmaður, framsýnn sparsamur húsfaðir, sem þannig sá þeim borgið, er honum bar að annast, að þeir ekki munu gleyma, að þakka honum þar fyrir í hans gröf; enda blessaði guð hann líka nægilegri atvinnu, og var þó ávallt fyrir mörgum að sjá, mikil aðsókn, mikil gestrisni, mörgum gott gjört. Þar sem margir leggja litla rækt við uppeldi barna sinna, láta þau upp vaxa í öllu reiðileysi, og senda þau þannig frá sjer út í heiminn, þá skal það sagt hátt og skýrt um þann, sem hjer liggur kaldur nár, að hann upp ól börn þau, sem guðs mildi gaf honun, sem hjá honum upp ólust, í aga og umvöndun til drottins, að hann ljet sjer annt um, að þau ekki einungis skyldu nema það, sem þeim gæti orðið til gagns og prýðis í lífinu, heldur líka venjast þannig, að þau með aldri yrðu uppbyggileg í mannlegum sambúðum. Hvílíkur hagleiksmaður hann var, hve fljótur og vandvirkur, er alkunnugt; mun óhætt að fullyrða, að hann hafi verið, ef ekki sá bezti, þá samt einhver hinn bezti skipasmiður nú á seinni tíð, og það lag, sem hann brúkaði á skipum, tekið öðrum fram;

er ekki lítið, sem einnig í því tilliti eptir hann liggur, og allt til dauðadags. Ekki var þá að undra, þó hann af öllum, sem hann þekktu, og einhverju áttu við hann að skipta, væri virtur og velmetinn, og að enginn hafi svo heyrt hans getið, að hann ekki undir eins vissi, að hann var einhver merkasti maður í sinni röð. Sem vott þess, í hvílíku áliti hann var, má líka telja það, að hann þegar á unga aldri var tekinn fyrir meðhjálpara hjer í sókn, eins og hann líka lengi var hjer fyrir söng; var hann þetta eins eptir það, að hann fluttist til Engeyjar, og má þó nærri geta, að það hafi verið næsta örðugt, en komið af því, að þeir, sem hlut áttu að máli, nauðugir vildu missa slíkan heiðursmann frá þeim starfa. Nú fyrir nokkrum árum var hann líka einn af þeim, sem var kjörinn í nefnd þá, sem að konungsboði átti að meta allar jarðir hjer í sókn, og mun hann hafa starfað að því með þeirri rjettsýni, greind og hreinskilni, sem hafði verið einkenni alls hans lífs.

Þvílíkur maður hefur þá hjer yfirgefið vorar sambúðir. Ó, von er þá, þó harmur sje á því heimili, hvaðan honum nýlega var burtu kippt, þó börn hans og barnabörn fylgi honum hrygg til grafar, þó hjú hans og fósturbörn, vinir og vandamenn sárt harmi missi hans; von er þá, þó sjerhver, sem ann þessari sókn, tregi fráfall

hans, sem var henni og svo lengi hafði verið henni til prýðis og uppbyggingar. Og við hvað er þá að hugga sig? Við þetta: „Drottinn gaf, drottinn tók, lofað sje nafnið drottins". Ekki viljum vjer því mögla yfir því, sem hjer er skeð. Drottinn gaf, og hann gaf oss hann lengi; en ekki gaf hann oss hann til þess, að hann eilíflega skyldi vera hjer. Þess vegna tók hann hann nú, og lofað sje nafnið drottins; hann tók hann, til að geyma hann í sælufullri návist sinni. Ó, hvílík huggun liggur ekki hjer í fólgin; hans dagsverk var langt; hann hafði með trúmennsku starfað í drottins víngarði, með samvizkusemi rækt þar verk hans, sem hafði hann þangað sett; nú var hann farinn að þreytast, að því komið, að hann gæti ekki lengur rækt það, eins og hugur og vilji var til; þess vegna veitti drottinn honum líka hvíld, flutti hann úr þessum víngarði í þann himneska, afklæddi hann forgengilegleikanum og íklæddi hann óforgengilegleikans eilífa búningi, setti hann við þá iðju, sem aldrei lýir. Þökkum þá drottni fyrir hans lausn; ástundum, að standa dyggilega í vorri stöðu, að fara hjeðan auðugir af góðum verkum; því sá, sem hjer var trúr yfir litlu, á von á, á síðan að verða settur yfir mikið. Og þjer, hans börn og barnabörn, látið yður hugfast, hvílíkan föður og afa þjer hafið átt; helg skylda hvílir á yður, að feta í hans fót-

spor; þjer eruð runnir af þeim ættum, sem lengi hafa verið þessari sókn til sóma og uppbyggingar; biðjið guð, að af þessum rótum megi enn nú renna mörg fögur blóm; biðjið hann, að vernda og blessa yðar ættlegg. Og þjer, hans vinir og vandamenn og hjú hans, sem með elsku og virðingu hjènguð fast við hann, og nú með söknuði og trega fylgið honum til hans síðasta hvíldarstaðar, hefjið augu yðar frá gröf hans; ekki í jarðarinnar skauti, heldur í hæðum, í sælunnar bústöðum, er að leita þeirra framliðnu, sem í drottni deyja; lítið þangað trúarinnar og vonarinnar augum, og látið huggast. Já, drottinn, hugga þú alla þá, sem særðir eru sorgarsári við fráfall þessa merkismanns; gef landi voru sem flesta bændur honum líka.

Og látum oss nú flytja þessar jarðnesku leifar í reit guðs barna, og leggja þær við hlið hans ástkæra maka; andinn er hjá guði, og mun hafa öðlazt þá sælu, sem hreinhjörtuðum er heitin að þessu lífi liðnu. Vjer samfögnum því, að hann er leystur undan lífsins oki, og biðjum hans og vorn himneska föður, að gefa oss, að lifa þannig, að vjer hughraustir og vongóðir fáum beðið þess dags, sem ljómar hinu megin við grafarinnar myrkur á landi sælunnar. Og nú, far vel, sæli framliðni! verði svefninn þjer vær í skauti þinnar og allra

vor móður, jarðarinnar. Drottinn blessi þig og varðveiti þig; drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig, og sje þjer náðugur; drottinn upp lypti sínu augliti yfir þig, og gefi þjer frið. Amen.

---

## 3. Grafskript.



Hjer geymist lík höfðingja dáins
og mörgum fremra fósturjarðar,

# Pjeturs Guðmundssonar.

Hann var fæddur 7. október 1786;
giptur 4. desember 1807;
dó 22. september 1852;
11 barna faðir, hvar af 7 lifa eptir hann.

*Fáa muntu finna,*
*sem fremri væri*
*honum að hjálpsemi*
*og hugarsnilli,*
*og enn færri,*
*sem feta mundu*
*eins fótvissir*
*til föður himna.*

Þegar að marar bylgjan blá,
búin með silfurfaldi,

hefst upp og sígur hafi á
himinsins undir tjaldi,
mundum vjer þá ei hugsa' um heim
hýran, en veilan hverjum þeim,
hann fyrir vin sem valdi.

En eins og sól við ægis djúp
umkringist roðastraumi,
og sveipast unnar svölum hjúp,
svífandi' í ölduglaumi,
eins *Pjetur* hvarf í hrannarskaut
hálli frá jarðarlífsins braut,
og döprum heimsins draumi.

Ægis hann huldi brúður blá,
og byrgði dimmu tjaldi,
en lík hans aptur landi á
leiðisins blóma faldi;
svo hylur drottinn dauðans nótt
dauðlegra líf, en aptur skjótt
ljósanna land því valdi.

*B. Gr.*

# 4. Grafminningarkvæði.

---



Fölnað laufblað á leiði
látins mannvinar
**Pjeturs Guðmundssonar**
frá Engey,
sem drukknaði 22. dag septembermánaðar 1852.

---

Enginn er sá meiður,
sem ekki fyrnist,
og loks að foldu
falla hljóti;
hversu sem mær
og mikill er,
verður hann að lúta
lögum þessum.

Því eins og vaxtar
og viðgangs magn
liggur fólgið
í frækorni hans,
þannig annað afl,
sem ei verður bugað,
upp leysir hann
í efni sínu.

Verður það og opt,
að vindur aflramur
fellir hann áður
en fauskur verði,
svo þótt bjöð skreyti
með blóma sínum,
liggur hann flatur,
fyr en varir.

Svo var og um prúðmennið
*Pjetur Guðmundsson;*
mörgum sýndist magn hans
mikið vera,
enda þótt ærin
áratala
yfir höfuð hans
hnigin væri.

En óvænt atvik
og ófyrirsjeð
leyfði honum ekki
lengri hjerveru;
hafði þó — opt
í háska staddur —
komizt alheill
úr kröggum sömu.

Syrgja nú Pjetur
synir og dætur,
sókn hans og sveit,
sýsla og land,
horfir hússtjórn góð,
hnípin og döpur,
á vandstigin hans,
og velgengin spor.

Góðsemi, gjafmildi
og greiðvikni,
atorka, ráðdeild
og reglusemi,
snotur snilliverk
í sniðum sínum,
auðkenndu' hann mörgum
öðrum framar.

Og þótt menjar þess
margar sjáist,
hver og hvernig
og hvar hann var,
þykja mun flestum
þunnskipaðra
eptir en áður,
þó allvel sje.

---

Grætur nú góður hvur
góðfrægan höfðingsmann;
af sínum saknaður
sárast þó verður hann,

af því að öðrum fremur
þeim hann til hags og heilla vann.

Minningin lifi mær
meðal knjerunna hans,
og jafnan skreyti skær
skrúðklæði þessa lands;
einkunn þá á sjer beri,
að hann var blómi bændastands.

Minni hún menn þar á,
að miklir sjeu' í reynd;
minningin þeirra þá
þeigi mun verða leynd,
af því að af þeim sjálfum
fyrir hana er brautin beind.

Dugnaður, þrek og þor,
það eru kostirner,
sem fóstur- fjörgyn vor
fullnasta telur sjer,
og af sjerhverjum heimtar,
sem hennar niðji sannur er.

Ástkæra Íslands þjóð!
athuga þetta skalt,
að þitt ættræknisblóð
ei látir verða kalt;
en að endurreisn þinni
stefni jafnan þitt áform allt.

405

II.

# RÆÐUR,

fluttar við jarðarför

## Ólafar Snorradóttur

24. dag febrúarmánaðar 1844.



# 1. Húskveðja,

flutt af þáverandi dómkirkjupresti,
herra biskupi **H. G. Thordersen,**
ridd. af dbr. og dannebrogsm.

---

Vjer erum hjer, elskulegir bræður og vinir, saman komnir, til að heiðra útför dáinnar merkiskonu, til að tigna hennar minningu, og veita henni þá seinustu þjónustu. Það er alvarlegt erindi; enginn af oss veit, hve nær aðrir verði kallaðir, til að veita oss þá sömu þjónustu; dauðinn liggur falinn með oss öllum í voru holdi og blóði; hve nær hann muni brjótast út, veit enginn nema guð, sem talið hefur vora daga. Þessi kista liggur nú fyrir sjónum vorum, og hvað segir hún oss? Sorglegur er litur hennar, og rómur hennar alvarlegur. Að vísu hefur hún ekki mál, nje líkaminn, sem í henni hvílir, og þó finnst mjer, sem engin tunga hafi eins mikla málsnilld, og sú kista, sem geymir leifar æruverðugs manns; um lítinn tíma stendur hún mjer fyrir augum, en sem hún hverfur, skilur hún mjer eptir þessa hugleiðingu: *Kenn þú mjer, lífsins og dauðans herra, að það hljóti*

*enda að hafa um mig, og að mínir lífdagar hafa takmark, og eg hlýt frá að hverfa. Sjá þú, mínir dagar eru hjá þjer sem þverhandarbreidd, og mitt líf er svo sem ekki parið fyrir þjer; hversu öldungis ekkert eru þó allir menn, þeir eð svo athugalausir lifa?* Þessi hugleiðing má ætíð fyrst grípa oss og hertaka, hve nær sem vjer sjáum dáins manns kistu. En þegar vjer um leið hugsum út í, að dauðlegar leifar ágætra manna verði í seinasta sinni bornar út úr þeim húsum, hvar þeir í lifanda lífi höfðu lengi búið og loks dáið með sóma, hvar þeir höfðu búið meðal ættingja, vina eður vandamanna, þá má oss detta margt fleira í hug, bæði um þeirra lífskjör, og hvað þeir eptir skilji, og hvernig þeim hafi liðið í þeim húsum, sem þeir verða hafðir út úr, til aldrei að koma inn í þau aptur. Það er hátíðlegt augnablik, þegar maðurinn er borinn örendur út af dyrum þess húss, hvar inni hann hafði lengi búið, við sorg og gleði, heilsu og vanheilsu, hvar hann hafði drukkið þann lífsins kaleik, sem sá himneski faðir hafði honum áskenktan. Þannig á úr þessum húsum bráðum að út leiðast andvana lík æruverðrar merkiskonu, sem guð er miskunsamlega búinn að inn leiða í hvíldina með sínu fólki, eptir langt líf og langa baráttu. Það er kunnugt, hvílíkan kross guð hafði á hana lagt í langvarandi heilsuleysi, og hve mikið hún

mátti líða, einkum framan af, en tók aldrei síðan á heilli sjer; en eins er og kunnugt, hversu hún bar þetta allt með óskertri stillingu og rósemi, og mátti þetta þó fá því meir á hana, sem hún fyrri part æfinnar hafði verið hraust; og því meiri og staklegri sem dugnaður hennar hafði verið, þess þyngri mátti sá kross vera, að geta ei stigið á fætur í heil 12 ár, en þykja þá sinn kostur beztur, er hún gat nokkurn veginn af sjer borið. En nú hefur hún kvatt þessi hús, hvar hún hafði svo mikið og svo lengi liðið, og hún hafði þá greind og guðrækni, að þakka drottni fyrir reynsluna, því hún vissi, að reynslan verkar þolinmæði, að þó sá útvortis maður hrörni, endurnýjast samt dag frá degi sá innri maðurinn, og að í gegn um neyð og þrengingar ber oss inn að ganga í guðsríki. Hennar stríð er nú úti, og hún hafði staðið í því eins og hetja; þess vegna hefur nú himna-faðirinn gefið henni heilsu fyrir vanheilsu, og, í staðinn baráttu, hvíld með börnum ríkisins.

En hún átti ekki einungis margra sorgardaga að minnast í þessum húsum; guð hafði einnig veitt henni þar marga gleðistund og mikla velgjörninga, í sambúð við mann sinn og hin efnilegustu börn. Mann hafði guð gefið henni góð- og blíð-lyndan, sem með nákvæmni og góðsemi vildi ljetta henni hverja byrði, sem

hvervetna sýndi, að hann bar fyrir henni virðingu, og vildi, að hennar sómi væri sem mestur; þau höfðu sameiginlega borið hita og þunga dagsins um þeirra langa samverutíma. Ekkjumaðurinn tregar nú þennan lífsfjelaga sinn, sem svo lengi hafði með dugnaði og dyggð, reglusemi og þrifnaði verið hans húsi bæði til uppbyggingar og prýði; og að sínu leytinu hefur sú sáluga kvatt hann með þakklátsemi og þeirri viðurkenningu, að guð hefði gefið henni góðan mann og henni hentugan. Hún hefur einnig kvatt börn sín, hver hún hafði upp alið í góðum siðum, og með stjórnsemi sinni og dugnaði og ráðvendni leitt á þann farsældarveg, sem þau ganga á. Henni mátti vera það daglegt yndi, þó hún sjálf hefði þungan kross að bera, að sjá og heyra gott af þeim, jafnmörgum og jafnefnilegum, einkum eins og þau öll elskuðu hana og virtu, og trega hana nú verðugum harmi. Hún hefur nú kvatt þau, beðið fyrir þeim, og gefið þeim sína blessun; og dýrmæt er ætíð blessun foreldranna; sú blessun rætist á þeim öllum.

Sú sáluga hefur þannig kvatt sína, og sagt skilið svo vel við hinar gleðilegu sem sorglegu stundir, er hún lifði í húsi sínu, og guði sjeu þess eilífar þakkir, að hann veitti henni margt gleðilegt í hennar lífi, og vissulega hefur hún af guðræknum anda opt þakkað það honum, frá

hverjum allar góðar gjafir koma, þegar hún í bænum sínum lypti til hans hjarta og huga, bæði á angursstundum sínum og endrarnær.

Þess ber og að geta, áður en hún er hafin út af húsum þessum, að hún hafði staðið hjer lengi fyrir, sem einhver merkasta húsmóðir, stjórnsöm, reglusöm, iðin og þrifin; og þótt hún væri lengi í rúminu, rjeð hún þó ei að síður, enda voru börnin henni til aðstoðar; hún kunni vel til stjórnar, og var því framgengt, sem hún vildi; með stillingu og alvöru gekk hún að öllu, fyrirkonuleg bæði í sjón, framgöngu og hegðun.

Slík merkiskona á nú að hefjast út úr þessum húsum; hún hefur eptir skilið ástvinum sínum sína minningu, að vísu sorgum blandna, en þó hreina, óspjallaða og æruverðuga, því dagfar hennar var stillt, og siðsemi hennar skeikaði aldrei. Eyja þessi hefur verið heppin að mannvali, og margur ágætur maður hefur verið hafinn út af hennar byggðum til guðsbarna hvíldar, og nú í þetta skipti sú kona, sem mörgum kostum var prýdd, bæði sálar og líkama; en fegin leggst hún í gröf sína og þreytt; guð hafði henni sinn kross á herðar lagt, en mennirnir höfðu ljett henni hann að því, sem þeir gátu; hún leið í skjóli og skugga ástvina sinna, en guð hafði gefið henni marga; sama elskan og ræktin, sem hennar gætti inni í húsunum,

fylgir henni nú út úr húsunum. Góður guð blessi í Jesú nafni hana, sem nú verður borin út, og hina, sem eptir verða; hann blessi þessi hús, og þá alla, sem í þeim eru, og þegar vor seinasta útgang að ber, þá gefi guð hann verði friðsamlegur og sáluhjálplegur.

Fylgjum svo allir með velviljuðum hjörtum þessum andvana leifum, og heiðrum bæði hennar dyggðir og hennar kross, og það stöðuglyndi, sem hún þurfti á að halda og guð gaf henni. Hyggjum og að því, að enginn veit sína æfina, fyr en öll er. Fylgjum allir með alvarlegum hugleiðingum um mannlegt hlutfall.

Gangið nær, góðir bræður, og hefjið út þessa líkkistu; vjer viljum flytja hana í helgan reit guðs barna, hvar hinir dánu hvíla af öllu þeirra erviði. Amen.

---

## 2. Líkræða,

flutt af sama.

---

*Sæll er sá maður, sem stenzt reynsluna; því þegar búið er að reyna hann, mun hann meðtaka kórónu lífsins, sem guð hefur þeim heitið, er hann elska.* Jak. 1, 12.

Sá skilmáli er eins og settur öllum, sem í heiminn koma, að þeir skuli verða reyndir, einn með þessu, annar með hinu mótinu; og þó það stundum fari leynt, og svo sýnist, sem sumir komist hjá reynslunni, þá er samt ei sem sýnist, en sú verður hvervetna niðurstaðan, að allir mega reynast; að vísu ei allir eins, en þó víst nokkuð með þeim hætti, sem hverjum mun viðkvæmastur, eptir því sem hann er gjörður að lunderni, náttúrufari, og öðrum ástæðum, sem eru samfara lífi hans. Það sama fær ei á alla, en eitthvað fær á alla, einkum þá, sem eitthvað eru að manni. Sá, sem ekkert bítur á, er líkari skepnu en manni. Maðurinn hefur það um fram dýrin, að hann verður að reynast.

Nú kann einhver hugsa, að dýrin muni og verða fyrir reynslu, einkum þegar illa er farið með þau; en þó það sje manninum mikil synd, að þjá skepnuna um skör fram, þá er samt öll reynsla bundin við meðvitund þá, sem ljóslega getur hugleitt sitt ásigkomulag, og líkt því saman við annað betra; því sá, sem ei veit af neinu betra, sá getur ei reynzt. Þannig vottar reynslan um yfirburði mannlegs eðlis. Að kvarta yfir reynslunni, væri því sama, sem að kvarta yfir því, að vera orðinn maður. Eins og hvað annað, sem skaparinn hefur gjört, svo rjettlætir líka reynslan sig sjálf; hún er einmitt og sjáanlega vottur þess mest áríðandi sannleika í lífinu, að maðurinn er bæði frjáls, og að hann líka á að taka framförum. Reynslan væri til einkis, ef maðurinn gæti ei tekið henni með yfirvegun, og óbundnum vilja, til að sigra hana eður stjórna henni, eins og bezt þætti henta; og hún væri honum til ógæfu einnar, ef hún ei æfði svo krapta hans, að hann við þá æfingu og baráttu gæti orðið fullkomnari. Lífið staðfestir þann sannleika, að öll framför komi af æfingu kraptanna; en öll æfing kraptanna' er reynsla. Þannig er ómögulegt, að maðurinn geti lifað samkvæmt ákvörðun sinni, ef hann ei reynist. Almenningsdómur segir hið sama; því hver er sá, að honum finnist mikið til þeirra manna koma, sem hann heldur að lítið eður

ekkert hafi reynt? Menn fara ei til þeirra, þegar manni liggur á, og menn fela þeim ei áríðandi málefni á hendur. Svo er nú öll mannsins framför bundin við reynslu; en reynslan er með ýmsu móti. Sum er með þeim hætti, að engum má sýnast of vaxið að taka henni og sigra hana, af því hún kemur ekki svo mjög í bága við mannsins tilhneigingu eður lundarlag; en svo kemur sú reynslan, sem er ógeðfelld holdi og blóði, sem reynir á innra og ytra manninn með þeim hætti, sem særir sál og líkama, án þess menn þykist fá skilið, hvernig slíkt geti verið manni til nokkurs gagns, eður jafnvel samkvæmt því rjettlæti, eður þeim æðri lögum, sem andinn alla jafna segir oss að ekki síður stjórni í mannlífinu en í náttúrunni; því vjer trúum allir á guðsríki, og þó vjer ei skiljum þess leyndardóma, vitum vjer þó, að því er stjórnað með vísdómi og gæzku. Þegar nú slíkar reynslur koma fyrir, sem særa vorn innra mann, þá sýnir sig bezt, hver kjarkur er í manninum, og þegar svo stendur á, er honum ekkert vopn gefið til mótstöðu, annað en trúin; hún ein er það í manninum, sem læknar sundurkramið hjarta. Þá eru og þær reynslur, sem fremur snerta líkamann í einum eður öðrum veikindum, einkum þeim, sem liggja jafnt á; en það er rangt, að tala svo um líkamann, eins og hann eigi ekki skylt við sálina. Sálin líður

alla jafna með honum, og hún getur líka haft mikið vald yfir honum. *„Svo bilar hug sem dug“*, segir máltæki; en því má með eins miklum sannindum breyta, og segja: *„Svo bilar dug sem hug“*; en hugurinn er ei annað en kjarkur sálarinnar, þar sem við erviðleika er að bíta. Þar sem nú þessi reynsla, að eiga að búa við veikan líkama, og daglega finna eins og dauðans forboða í sjálfum sjer, já, næstum því eins og á hverjum degi eiga eintal við dauðann, þar sem hún, segi eg, kemur fyrir í lífinu, þar reynir ei hvað minnst á manninn; því meðan menn eru heilbrigðir, fá menn mörgu, sem sálunni amar, af sjer hrundið, af því sál og líkami styðja þar hvort annað; en þegar líkamans heilsa er horfin, má heita, að sálin beri alla byrðina einsömul; þá ríður á þolinmæðinni, sem helguð sje af trúnni. Og má ske er engin reynsla, sem eins leiðir manninn til sannra framfara, eins og þessi, ef menn taka henni með þolinmæði, von og trausti, og þeirri trú, að allt muni þjena manni til góðs, ef menn elski guð.

Þannig er reynslan sameinuð lífinu, og verður að vera það, til þess að lífið nái sínum tilgangi, sem er framförin; en svo má ei gleymast, að það, sem jeg kalla framför, er mest bundið við sálina, við innra manninn, við helgunina og friðinn, svo að rætist þetta orð

drottins: *„Sælir eru harmþrungnir; því þeir munu huggaðir verða“*, í hverjum orðum sú meining liggur fólgin, að sannur friður fáist ei án baráttu, og sönn, endurnærandi og svalandi huggun ei án sorgar, að allt, sem lífið á æðst og bezt, fáist ekki án reynslu. Þess vegna ljet guð reynsluna vera lífinu samfara, af því einungis fyrir hana og gegn um hana nást lífsins dýrmætustu gæði, og þá verða auðskilin þessi orð: *„Í gegn um neyð og þrengingar ber oss inn að ganga í guðsríki“*.

En svo almenn sem reynslan er, óumflýjanleg og áríðandi, svo er þó allur munurinn, hvernig menn taka henni, og ei vinnur hún jafnt á alla; ei bætir hún alla jafnt, ekki lagfærir eður fullkomnar hún alla jafnt; og fáir ná því, sem eg tel æðst í lífinu, sem er helgun og friður; en þetta næst ei með öðru móti en því, að maðurinn í sannri þolinmæði lítillækki sig undir drottins voldugu hönd, og sannast svo einnig hjer þetta orð: *„Lítillátum gefur guð náð“*. Þar undir er nú allt komið, að vjer lærum að taka reynslunni rjett, og því segir líka texti vor: *„Sæll er sá maður, sem stenzt reynsluna“*, þ. e. sá maður, sem tekur henni eins og vera ber, sem ekki espast við mótlætið eður andstreymið, eins og vilji hann þreyta lög við guð, heldur fyrst og fremst af öllu lítillækkar sig undir hans hönd, og tekur

því, sem að höndum kemur, eins og einhverri vísbendingu, eins og einhverju því, sem fyrir reynsluna eigi að leiða hann til einhvers lærdóms, hygginda eður framfara í góðu. Að standast reynsluna, er að yfirbugast ekki af henni, heldur sigra hana með því, að leggja í hana einhverja æðri þýðingu, og gjöra sjer hana svo í huganum bærilega, í þeirri vissu von, að hún, eins og hvað annað, geti orðið manni að góðu, ef menn taki henni rjett og kristilega. Af þessu má nú ráða, að sá maður er sæll, sem stenzt reynsluna, af því hún verður honum að góðu, fullkomnar hann og lagfærir, og gefur honum stöðugt tilefni til aðgæzlu á sjálfum sjer og vaxandi framfara, svo þó reynsla hans sje með því móti, að ytri maðurinn hrörni, þá endurnýjast samt dag frá degi hans innri maður, og því get eg ei annað, en ávarpað yður með orðum postulans Jakobs: *„Álítið það mesta fagnaðarefni, bræður mínir, þegar þjer ratið í ýmislegar raunir; því reynsla yðar trúar verkar stöðuglyndi, en stöðuglyndið á að fullkomna verkið, svo að þjer sjeuð fullkomnir og algjörðir, og í engu brest hafið“*. Til þess eigum vjer að lifa, að vjer reynumst, en reynast til þess, að vjer getum fullkomnað verkið, áður en dauðinn kemur.

Hjer hefur dauðinn gjört enda á því stundlega lífi hinnar reyndu og mæddu merkiskonu,

**Ólafar Snorradóttur.** Hún fæddist 29. marz 1783, giptist ár 1807, og andaðist þann 16. þessa mánaðar. Aldur hennar var þá 61 ár, og við mann sinn hafði hún lifað saman í 37 ár. Hún fæddi honum 11 börn; lifa enn 8 af þeim, og eru 7 af þeim gipt, og hafa þegar fjölgað ættum; er afsprengur sá mikill, og mestur hjer um nes. Þessi kona var í æsku sinni talin einn sá bezti kvennkostur hjer í sveit, og þó lengra væri farið. Hún var prýðilega menntuð, bæði til munns og handa; hannyrðir hafði hún lært í Viðey, hjá Guðrúnu Skúladóttur, en hjá móður sinni, einhverri hinni beztu og mestu konu, nam hún dugnað allan og fagra siðprýði. Um dugnað hennar þykir mjer nóg að geta þess, að Guðmundur sálugi í Skildinganesi, tengdafaðir hennar, tók til hans, og vissu allir, sem hann þekktu, að honum fannst ei til þess, sem lítið var. Hún var á heimili sínu einhver mesta dugnaðar-, þrifnaðar- og reglukona, stjórnsöm og fremur alvarleg; börn sín upp ól hún í góðum siðum í aga og umvöndun til drottins, leiddi þau með alvörugefni til reglu- og iðju-semi, og uppi hjelt yfir höfuð reglubundnum heimilisháttum. Hún var greind, guðrækin og velþenkjandi, trygg, þar sem hún tók því, til dauðans, staðföst í öllu ráðlagi; allt í frá æsku var hún eins og frábitin glaðværðum, en hneigð fremur til alvöru, má ske þunglyndis.

Þegar árin fjölguðu, og hún var farin að þreytast, veiktist hún, og leið hún mikil harmkvæli af gigt, sem hnýtti bæði hendur og fætur, og voru það full 10 ár, sem hún lá í rúminu, og gat ei klæðzt nje að kalla matazt án hjálpar, og má geta nærri, að þetta mátti fá því meir á hana, sem hún hafði verið meiri dugnaðarkona, og þegar hún aldrei tók á sjer heilli í svo langan tíma, þá væru ei undur, þó henni stundum hefði leiðzt lífið, eður vottað til amasemi; en bæði var hún sjálf guðrækin og greind, og þar að auki var henni, bæði af manni hennar og börnum, sýnd staðföst nákvæmni, umhyggja og virðing, hvað allt henni ljetti þolinmæðina. En þótt hún í mörgu væri farsæl og heppin kona, þá var samt þessi reynsla mikil, sem drottinn lagði á hana, en hann gaf henni krapta, til að standast reynsluna, og sem búið var að reyna hana, hefur hún meðtekið lífsins kórónu, sem guð hefur þeim heitið, er hann elska.

Guð hefur nú tekið hana úr lífsins reynsluskóla, í hverjum hún lengi var búin að mæðast, og hefur þegar inn leitt hana í hvíldina með sínum börnum. En þó henni væri betra, að fara hjeðan og vera með Kristi, þá trega hana þó ástvinir hennar; ektamakinn tregar sinn látna vin, og þá meðhjálp, sem svo lengi hafði með honum verið og með honum staðið, og fætt honum svo mörg og efnileg börn. En, elskulegi

vin! verið glaðir hennar, ef ei yðar, vegna, að hennar reynsla er á enda, að úr því lífi hennar var svo varið, sem það var, svo veitti guð henni rólegan og hægan dauða, því líkastan, sem hefði hún sofnað út af í yðar faðmi, að hann gaf yður að lifa hana, og veita henni alla þá alúð og nákvæmni, sem í yðar valdi stóð og bezta manni sæmdi; því jafnan höfðuð þjer vel með hana farið, og viljað hennar geð stunda; þess vegna viljið þjer lofa guð fyrir hennar frelsi, eins og líka fyrir þá aðstoð, sem þjer áttuð, þar sem hún var, um ykkar löngu sambúð, samt fyrir allt það, sem drottinn ljet fram við ykkur bæði koma.

Þið, börn hinnar sálugu merkiskonu, hafið öll verið henni auðsveip, ræktarsöm og umhyggjusöm. Nú þarfnast hún ei lengur ykkar umönnunar, en þið hafið fullnægt fagurri skyldu, sem veldur því, að þið getið þess fremur huggað ykkur nú við fráfall heiðraðrar móður. Þið megið líka, eins og aðrir, viðurkenna, að það var miskun guðs, að hann ei lengur vildi láta sinn krossberara þjást, heldur tók af henni þá þungu byrðina, og inn leiddi hana í sína hvíld. Hennar dyggðir sjeu ykkur æ fyrir augum, og þið viljið aldrei gleyma því, sem þið eigið henni öll að þakka.

Guði sje lof fyrir hennar frelsi og lausn frá líkama þessa dauða og öllum þjáningum;

hún er sæl, því hún hafði staðizt reynsluna. Sá, sem sagði: „*Komið til mín, allir þjer, sem erviðið og þunga eruð þjáðir*“, hefur heyrt hennar andvarpanir, og tekið hana til sín. Hún fann ei lengur svölun af þessu lífi; nú er hún leidd að bökkum mikilla vatna, og frá miklum líðunum er hún inn genginn til óendanlegs fagnaðar.

Að lyktum biðjum vjer þig, almáttugi lífsins og dauðans herra, að þinn friður megi vera yfir öllum þeim, sem hjeðan flytjast úr vorri sambúð, samt að þú gefir þeim, sem hjer dvelja, þinn anda, svo þeir hyggi að sínum vitjunartíma. Ó, vor guð, lífið er stutt, eilífðin án takmarka, lát ei skammvinnan fagnað spilla fyrir oss eilífri dýrðarinnar þyngd; lát þá djúpu raust, sem til vor kemur frá gröfum hinna framliðnu, minna oss á tímans alvöru, á tímans enda. Feður og mæður, vinir og frændur yfirgefa oss, en sjertu með oss, faðir, eigum vjer allt. Æ, gef hinum dánu frið, og huggun þeim, sem harma; gef þolinmóða biðlund þeim, sem þreyja, en veit öllum oss að hugleiða það vjer hljótum að deyja. Amen.

---

# 3. Grafskript.



Mjúkur ástfaðmur móðurjarðar
felur það hjer, sem feigð gat náð,
Madame **Ólafar Snorradóttur;**
hún var fædd 29. marz 1783;
giptist 4. desember 1807;
dáin 16. febrúar 1844;
móðir 11 barna,
en barnabarna 26.

Langvinnum kramin
líkams meinum,
en með þrautgóðu
þreki sálar

gegnd' hún trúlega
gefnum skyldum,
jafnt við heimili,
megi' og maka.

Hússins móður mörg er skyldukvöð
ervið, þó ei ytri kraptinn bresti;

en ef sjúkdóms grandið heilsu lesti,
sú er hetja, sem þær fyllir glöð.

Fylling skyldu fús, þó ervið sje,
dyggð er sönn, en dyggðin hjá sjer geymir
dýrmæt laun í öðrum sælla heimi,
sínum vinum sem hún ljet í tje.

Svo minntist
elskaðrar ektakonu
*P. G.*

---

